# Ein
# Nytsamlig

Jón Borgfirdingur.

# Bænabook,

sem lesast maa
A Sierhverium Degi, Vik-
unar, Kvelld og Morgna,
Samanskrifud i Pydsku Mæle,
Af
M. JOHAN. LASSENIO,
Eñ a Islendsku wtløgd
Af
S.THORSTEINI GUNNARSSYNI,
Kyrkiu-Presti a Hoolum 1681.
Nu uppløgd og forlagi
Mag. JOONS ARNASONAR,
Biskups yfir Skalholts-Stifti.

Prentud i Kaupmañahøfn, af Ernst Hen-
rich Berling, Aar eptir GUds-Burd
1743.

Matth. XXVI. v. 41.

Vakid og bidied, so ad þier fallid ecki i Freistni.

Jac. V. v. 16.

Bæn hiñs riettferduga maa mikid, þa hun er alvarlig.

Joel. III. v. 1. 5.

Eg vil uthella mijnum Anda yfir allt Holld, og þad skal skie, ad hver sem aakallar Nafnid DRottiñs, skal holpiñ verda.

# Morgun Bæn a Suñu-dagiñ.

Lof og Þacker, Priis og Æra sie þier, myskunsami GUD og Fadir, þu trufasti Verndari Israels, og allra þiña riett-truadra Barna, fyrir þa storu Naad og Myskunsemi sem þu hefur audsynt mier a þessari umlidñi Nottu, og burtrekid fra mier alla mijna Ovine, og latid mig heilbrygdañ sofa, og uppvakna, aan allrar Olucku og Haskasemda, þar med og eiñen verndad mig og vardveitt, sem Siaaldur þijns Auga, og bevarad mig under Skugga þiña vængia, og hefur nu uñt mier, ad sia og lijta, þessa uppruña Dags Lios med Fognudi.

O! hiartans Fadir, þijn Elska er so stor, hver kañ hana nogliga ut ad segia?

Eg prijsa þig fyrir allar þijnar Dasemdir, og þacka þier fyrir alla þijna Myskun, sem þu hefur audsynt mier, allt fra miñar Modur Kvidi, og til þessarar Næturgrar stundar. Eñ eg medkieñi i iñstu Hiartans Audmykt, ad eg vegna miña Synda og Oþacklætis, er ecki verdugur so storrar giæsku og Godsemdar af þier, þo samt bid eg þig. O! þu Giæskuriski Gud, miñstu a þijna storu Myskunsemi, sem verid hefur fra Veralldariñar upphafi og vertu mier aumri og syndugri Maneskiu nædugur og lijknsamur, fyrirgief mier allar mijnar blodugar Synder, og tak ecki þijna Hønd fra mier. Jaa himneske Fadir, miñstu a þad dyrmæta rosrauda Blod, þijns Elskuliga Sonar JEsu Christi, sem hañ fyrir mig uthellti, i siñe heilogu Pijnu, og vertu mier fyrir þess saker myskunsamur, og utskufa mier ecki, fra þijnu heilaga Auglite, helldur vyrdstu a þessum Dege, ad taka mig i þijna Voktun og Værndan. Vardveittu Saalu mijna, so hun gaange ecki ut af Takmorkum þiña heilogu Bodorda. Stattu a moti Dioflinum, so hañ geti ecki komid mier

mier til Falls nie Hrosunar. Heft þu og hindra Tilteigingar mijns Hollds og Blods, so eg verdi ecki af þvi svikiñ nie afvega leiddur.

Gief mier i mitt Hiarta, himneskar Hugsaner, og tak i burt fra mier gyrnd og Lystijng til Heimsins og Veralldlegra Hluta. O! þu sæti Fadir veittu mier þiñ Styrk, og Adstod, ad eg aa þessum Degi, standi upp af Svefni Syndaña, og fædi Saalu mijna med þijnu heilaga Ordi, sem i Dag er kieñt og predikad, þangad til hun um sijdir verdur uppnumin i Himeniñ, til sijns Hofud-Hyrdirs, og ædsta Kieñimañs JEsu CHristi. Vardveit þu og so a þessum degi, epter þijnum fødurlegum vilia, mitt Lijf og Lijkama, bevara þu mig fyrir þijna Heilaga Engla, og laat ei nockra Olucku nalægia sig til mijns Heimkiñis, þviad i þijna, miuku Myskunar Hønd, befala eg mig allañ a þessum Degi, med Lijfi og Saalu, og ollu þvi mier tilheyrir. Þu ert miñ Fader, eñ eg er þitt Barn, lattu mig æfinliga teiknadañ vera i þijnar H. hendur til tijmanlegrar og eilijfrar Blessunar. O

þu fagra Lios Mañaña lattu Lioma þijns Andlitis, lysa yfer mig, so eg gangi alltijd i Liosinu, og ad eg helgi so i Dag þiñ Sabbath, ad eg ecki gleyme ad færa þier þa skylldugu Æru og Heidur, sem mier byriar og þier maa þocknast, ei helldur undanfelli Verk Kiærleikans, sem eg er skylldugur ad veita mijnum Samchristnum Naaunga, allt þar til eg um siider verd uphafiñ til þess eilijfa Hvijld ar Dags a himnum fyrir Saker Upstigningar þijns kiæra Sonar mijns Lausnara JEsu Christi.

O! DRottiñ, miskuna þig yfer mig, og vert mier naadugar, bæde i Dag, og a miñe Dauda Stundu, og aa Degi þijns Sijdasta hrædiliga Doms fyrer þijns Heilaga og Blessada Nafns saker, Amen.

## Kvolld-Bæn a Suñudagiñ.

O! DRottiñ GUd himneski Fadir og HErra mijns Lijfs, ell þijn Verk eru ecki utan Myskun og Sañleiki. þu hefur halldid mier vid lijfid a þessum Degi,

Degi, og mier allt gott veitt og audsynt til Lijfs og Saalar.

Þu hefur og einin eptir þine storu og haaloflegu Myskunsemi, verndad mig fyrir øllu Illu, og giefid mier bædi Lijf og velferd.

Þitt Tillit hefur vardveitt min Andar dragtt, þar fyrir prijsar þig Saala mijn, og min Munur er fullur af þini Hrosan, en eg maa makliga skamast mijn, og mier hæfir Blygdan mijns Andlitis, þess vegna, ad eg hefe þo i Dag margfalldliga syndgad a moti þier og oriettiliga gengid aa þijnum vegi; avij gode Drottin! Hver kan ad skilia hvad opt han fellur? Fyrirgief þu mier mijnar heimuglegar Syndir, hialpa þu mier fyrir þijns Nafns saker, og afmaa þu mijnar Misgiørdir sem anad Sky, og mijnar Syndir sem adra Þoku. Hreinsa þu mijna Samvitsku af daudlegum Verkum fyrer þad dyrmæta Blod Jesu Christi, og tak ecki þijna Hønd fraa mier og yfirgief þu mig ecki. Sia þu elskulegt Fader, nu dregst yfir Nætur Myrkred, so þad erølldungis myrkt og dimt i krijngum mig: avij þu blessada lios

yfirgiefdu mig ecki, mijn fagra Sol, gack þu þo iamt ecki undir i mijnu Hiarta. laat þijna Engla slaa eina Skialldborg i kringum mig, og allt þad mier til heyrir og vidkiemur, so ad þeir bevari mig Volldugliga fyrir allri Olucku og Fordiörfun. Blessa þu miñ Svefn, og rek þu langt i burt fra mier allar Dioful̄ins Skielfingar, so hañ faai einga Magt yfir mier. O! þu Giæskurijki Fadir, laattu mig hafa Hvijld i þier. Þitt heilaga Ord, sem i Dag hefur verid Predikad, og eg hefe numid, sie mitt Lioos og Leidarstiarna. Þier befala eg mig nu, med Lijfi og Saalu, oll mijn Von er bygd og Grundvolllud a þier. J þier vil eg nu ut af sofna, undir Skugga þiña Almættis og Myskunar Vængia, verd eg, og er eg vel vardveittur. Tak mijna Saal ad þier, til Umhyggiu framvegis, og laat mig eptir þijnum Vilia a Morgun, upp aptur vakna med Fognudi, til ad lofa þig og vegsama. Þetta veittu mier goodi GUD, fyrir Sakir Fyrirboonar og Forþienustu þijns elskuliga Sonar JESU Christi, mijns Endurlausnara, Amen.

Morg-

# Morgun=Bæn a Manu=dagiñ.

Miñ myskunsami og allra milldi-rijk=asti GUD og Fadir, A þessari Morgunstund kiem eg fram fyrir Thron og Hæ=stool þinnar Gudoomligrar Giæsku, færandi þier skylldugt Hiart=ans Þacklæti, Fyrir það, þu hefur laat=id mig gladañ og heilbrygdañ uppstan=da, af Svefni og Myrkrum þessarar Nætur. O! þu goodi Himneski Fadir, hversu Dæsamliga hefur þijn Hønd verndad mig og vidhalldid mier, so ad Andskotiñ hefur ecki eptir siñi Villd, kuñad ad skada og fordiarfa mig a þessari Noottu?

Þvi skal miñ Muñur nu fram vegis, vera fullur af þiñi Lof=giørd, og þig dagliga prijsa fyrir alla þijnaVelgiørn=inga. Eñ af þiñi Naad, virdstu ad fyr=irgiefa mier allar mijnar Syndir, og giør þu vel vid mig, eptir þinnt Good=girni. Minstu ecki a Syndir mijns Ungdooms, nie a mijnar Yfirtrodslur, Helldur minstu mijn, eptir þiñi Mysk=unsemi, fyrir saker þiñar mikla Giæsku,

Styr mier og stiorna, a þessum Degi, og þessari tilkomandi Viku, og alla mijna Lijfdaga, so ad eg i allri mini Uppbyrian og Framkvæmd, eptirfylgi þynu Ordi. Vernda þu mig goodi Himneski Fadir, fyrir Freistingum og Araasum Diofulsins, asamt Tilteigingum mijns Holldz og Bloods, so ad eg giori eckert vondsliga, eda Syndgi i nockurn maata a moti þier. Laat þijna Heilaga Engla, vernda mig og bevara, a ollum mijnum Vegum og Stigum, so eg vel og farsæliga verndadur verdi, fyrir ollum Skada og Haaska, Lijfs og Saalar, þvi ad eg befala þier, O þu goode GUD, i Dag og alla Tijma, mijna Saal og Lijf, Men̄ og Kvin̄ur, Børn og Heimkyn̄i, og allt þad mier tilheyrer. Vidhalltu mier, vernda og bevara mig, so eingin Olucka naalægist mig. Vertu sialfur min̄ Skiolldur og Skiool, Blessa min̄ In̄gang og Utgang, Og yfirgief ecki þa sem þeckia þitt Nafn, Hugga þu og endurnær alla Sorgfulla og Siuka, Hialpa þu ollum þeim, sem i nockri Neyd eru staddir. Og sie þad þin̄ þægiligur Vilie, ad lijka skuli yfir mig drag-

aſt eitt þyckt Motlætis ſky i Dag, þa gief þu mier ſkalfur Raad og Styrk, og H. Þolenmæde þad ad uñbera.

Bleſſa þu og ſo Lijknſami Fader, i Dag, og uñ alla þeſſa Viku, mitt Erfidi og Atvinu, og allt Verklag miñar Kallanar og Embættis, ſo ad ſu Mæda og Þianning, ſem eg þar af hefi, mætti ecki til onytis verda. Laattu mig alla Tijma Hura til þijn, og hier i mijnu Hiarta Behallda, og þiñ Otta mier fyrir Augum hafa, Chriſtiliga lifa, og Saaluhialpliga hiedan ad ſofna.

Þetta veittu mier, fyrir Saker JEſu Chriſti, þijns kiæra Sonar, mijns Bleſſada Endurlauſnara, Amen.

## Kvølld-Bæn a Manudagiñ.

Miñ Giæſkurijki elſkuligi GUD og Fadir, Nu er þeſſa gooda Dags Lioos i burt lidid. O! hvad Daaſamliga hefur þijn Naadarrijk Fyrirſioon, bevarad mig i Dag, fra øllum Skada og Haaſka Lijfs og Saalar? Þijna Myſkunſemi vil eg þar, fyrir prijſa, af øllu

øllu mijnu Hiarta, og eg Grætbæni þig nu, i stæstu Audmykt Hiarta mijns, og bid þig i Nafni þijns Elskuliga Sonar JEsu Christi, Fyrirgief mier þijnu Varni, O! þu goodi Fadir, allt þad sem eg hefi giørt a moti þier, a þessum Degi, med Hugreñingum, Ordum og Verkum. O! þu lifandi GUd, fullur Naadar og Myskunar, Minstu a þad dyrmæta Lausnargialld, mijns Endurlausnara JEsu, og vert mier fyrir hañs Saker Naadugur og Myskunsamur, og tilreikna ecki mijnar þungu Synder Saalu miñi. Myskuna þu þig yfir mig, O þu Giæsku rijkl GUd, þviad sia þu, Eg ligg hier nu fyrir þijnu Heilaga Augliti, med angraadu Hiarta, Æ DRottiñ, vertu mier aumum og Syndugum Naadugur, Snu þu til mijn Augum þiñar Fodurligrar Myskunar, og laat þijna heilaga Blessan, Voktun og Verndan, koma yfir mig, og vera med mier a þessari Noottu. Vardveittu Saalu mijna og Lijkama, og alla mijna Vini og Vandameñ, og allañ Christindoomiñ, fra øllum skada, Neyd og Olucku. Laat einga Skielfing og Hrædslu,

Otta

Otta edur Ofbod yfir mig koma, nu i Noott. Vertu DRottiñ allra vor Vaktari, Hialpræði og Heilsugiøf, þvi uppa þig alleina forlæt eg mig, og undir Skiooli og Skugga þiña Vængia, hef eg orugt Vijgi, og Rosama Hvijlu. Varna þu Andskotanum, og þeirri VonduVerolldu, ad giora mier nockurn Skada uppa Saal edur Lijf, og þo miñ þreyttur Lijkami og Limer, sofi og hvijlist, þa lææt mitt Hiarta avallt vaka til þijn, so ad jafnvel i mijnum Draumum megi eg hyxa til þijn. O! þu Naaduge Guð, Virdstu og so a þessariNoottu, þijna eptir-þreida og æskiliga Huggun ad veita, øllum freistudum og yfergiefnum, syrgiandi Mañeskium, og uppfyll þeirra Hiarta, med Gledi og Fognudi i þier. O! DRottiñ, Vertu Lijknsamur og Naadugur allri Christiligri Kyrkiu, þinna wtvaldra Barna litla Hoop, og gief hønum sameginliga eptir þijnum Bodordum, med hlydugu Hiarta ad framganga og lifa. DRottiñ Guð, þu Almaattugi Fadir, i þijnu blessudu Nafni og Trausti vil eg nu wt af sofna, lææt þijna Heilaga Engla vera mijna

Vakt-

Vaktara i kringum mig, og uñ mier i riettañ Tijma, upp aptur ad vakna, til ad lofa þig og vegsama, Þier sie Dyrd, Heidur og Þacklæti; ad eilijfu, Amen.

# Morgun-Bæn a Prid-iudagiñ.

O Þu allra Goodgiarnasti og elskulegi HErra JEsu Christe, miñ sætasti Endurlausnari. Þijnu heilaga Nafni, og þinni stooru Elsku hef eg ad þacka, i diupustu Audmykt Hiarta mijns, fyrir þad, þu hefur mig so Naadarsamlega vardveitt, i Dimu og Myrkrum þessarar Nætur, og mier vidhalldid, ään alls Skada og Olucku. Jää, þu blessada Riettlætis Sool, hefur mig so Naadarsamliga geymt og verndad, Lijfs og Säälar vegna, og fyrir þitt Guddoomligt Almætti, läätid mig lifa allt fram a þeñañ Dag. O! þu miñ Milldiriiki Endurlausnari, Hversu Fødurliga Umhyggiu hefur þu Dagliga fyrir mier? Þu wtbreidir þijna Naad yfir mig i Þusundfalldañ määta, framar eñ eg i nockru Forskulldad hefi, þviad eg med-

kienn med Angri og Trega, þad eg hefi ecki halldid mier so fastliga vid þig, sem mier byriadi, og mitt Hugskot hefur framar hneigst til þess tijmanliga, enn til þijn. Eg jaata og vidurkienni, ad allt mit Lijferni, og øll mijn Verk, eru einskis verd, og ecki utan Synd og Raanglæti, hvar med eg hefi saarheita Reidi þijns og mijns Himneska Fødurs, margfalldliga forþienad. Enn eg bid þig, þu sætaste HErra JEsu, sem allra Manna Syndir hefur uppa þig tekid og borid, og fyrir þær algiørliga bætt, þu sem og einin fyrir heitir Naad og Fyrirgiefning Syndanna, øllum Voludum og Fatækum. Ach! vertu mier aumum Syndara Lyknsamur og Naadugur, og bid fyrir mig þinn Himneska Fødur, med O-aflaatanligri Andvarpan, umm Vægd og Myskun, og laattu mig finna Naad fyrir hanns Augliti. O! HErra JEsu, laattu ecki Uthelling þijns dyrmæta heilaga Bloods, verda til forgiefins a mier aumum Syndara, helldur minni Angradri Saalu til Lækningar og Hreinsunar, og æskiligustu Gledi, bædi a medan eg hier lifi og einkum i minni Andlaati. Stioorna

Stioorna mier og so a þessum Degi, med þijnum Heilaga Anda, ad eg fordist og flye þad vonda, og standi trwliga i þiñi Dyrkun og Þionustu. Gief Nææd, ad aller mijnir Lidir og Limir, framkvæmi þijna Dyrd, og allar mijnar Huxanir, Ord og Verk hneigist til þijn, og sieu giord i þier. Miñ Almaattugt Endurlausnari sem sundurbrotid hefur Hoggormsins Hofud, bevara þu mig fyrir Pijlum og Asoknum þess Helvijtska Hoggorms Diøfulsins. Vardveit þu mig fyrir Slægd og Prettvijsi Veralldariñar og Heimsins Barna, og laattu mig under þiñi Naadar verndan, og Vængia Skiooli, An allrar Olucku Vgglausañ, vera og blijfa mega. Herra JEsu, þier befala eg i Dag og alla Tijma, Saalu mijna og Lijkama, Meñ og Kviñur, Børn og Heimkyñi, og allañ Christindoomiñ. O! DRottiñ, þijn Blessan sie stadfost yfir oss, og med oss ollum. Blessa þu Verk miñar Kallanar, og gief mier miñ deilldañ Verd. Haf þu alla umhyggiu fyrir mier O! JEsu, og vertu sialfur mijn Heill og Vnadsemd, so eg hafi Lijf og fullaNægd,

hier

hier stundliga og siidar eiltjfliga, fyrir þijns Heilaga Nafns saker, Amen.

## Kvolld-Bæn a Pridiudagiñ.

O þu elskulegi HErra JEsu Christe, Hvornin kañ eg noogliga ad prijsa þitt Guddoomliga Nafn, og vijdfrægia þijna stooru Elsku og Kiærleika, sem þu hefur audsynt mier? Þviad þijnum Naadarvængium hefi eg þad ad þacka, ad eg hefi vel vardveittur verid a þessum Degi, fra øllum Slisum og Haaska, so allt mitt Verk og Viñulag hefur farsællliga luckast og afgeingid. O! þu Goode HErra JEsu Christe, virdstu framvegis þiñi Myskun eñ nu vid mig ad framhallda, a þessare Noottu, og lijta til mijn i þiñi Naad, so ad, þo Daguriñ endist og undirgangi, eñ Næturmyrkrid aptur yfirfalli, þa læattu samt þijna Lykn og Lidsemd vid mig ætijd ferska og nya framhalldast, og alldrei bregdast nie aflaata. O! þu trufasti Hialpari, vertu sialfur mijn fagra Sool, og lioomanda Lios i mijnu Hiarta, allt til mijns sijd-

afta Andartaks, og Burtferdar Tijma. Minstu ecki a mijnar Yfirtrodslur og Syndir, sem eg hefi giort og framid a moti þier i Dag. O! DRottiñ, fyrirgief þu mier þær allar, bædi þær vitanligu og Ovitanligu, kasta þeim i Hafsins Diwp, so þeirra Miñing komi ecki upp ad eilijfu.

Gief mier nu framvegis þijna Nad og heilags Anda Adstod, ad eg vegna Elskuñar til þijn, deydi og wtslocki i mier, alla Girnd og Lysting til Syndariñar, og Ogudligs athæfis, eñ Hiarta mitt mætti þig prijsa, miñ Muñur og Tunga þier hroosa, so ad eg alla Tijma, i þijnum Otta, Elsku og Vidurkieñingu framfari, allt til æfiloka. O! þu Elsku-rijki HErra JEsu Christe, kom þu nu a þessari Noottu iñ i mitt Hiartans Hws og Herberge, sea þu so til miñar Saalar, Fridur sie med þier. Varna þu Myrkraña Høfdingia Dieflinum, med þijnum Guddooms Krapti, ad snerta mig, eda ad giora mier nockurn Skada, Oroo eda Olucku. Tak i burt fra mier alla Hrædslu og Skielfing Hiartans og Saalariñar, Vertu sialfur mijn Vernd

og

og Vocktun a þessari Noottu, so mig hendi eckert vondsligt, og eingin Olucka naalgist mig. DRottiñ, eg er þiñ, þu ert mitt Hofud, eñ eg þiñ Limur, yfirgief þu þar fyrir ecki þiñ Lim a þijnum Lijkama. Allt mitt Athvarf hef eg til þiña Heilogu Unda og Benia, fyrir mijna angrudu Saal og Hiarta. Æ læt þu mig þar iñi sætt og Roosamliga hvijla mega. Blessa þu miñ Svefn og Nætur Hvijld, læt Sætleika þijns Heilaga Nafns, sedia og gledia mijna Saalu, Vidhallt þu mijnu lijsi, eptir þijnum egiñ Vilia, og so lengi sem þier þocknast. Settu þa Elldligu Skialldborg og vaktan þiña heilegu Engla i kriingum mig, og allt þad mier tilheyrir, so eg a Morgun aptur uppstanda megi, frij og Hindrunarlaus, af ollum Skada, og þig miñ DRottiñ þa med glodu Hiarta ad lofa, Heidra og Vegsama. Bænheyr þu mig, O! þu goode JEsu, sem ert mitt Lioos og Lijf, fyrir sialfs þijns Saker, Blessadur ad eilijfu, Amen.

# Morgun-Bæn a Midvikudagiñ.

O! þu Almaattugi GUd, Fadir og HErra mijns Lijfs. Eg þacka þier, af allri Saalu og insta Hiartans Gruñi, fyrir þad þu hefur eñ nu a þessari Noottu, wtbreidt yfir mig, þijnar Myskunar Hendur, og mig Fødurliga vardveitt, med Skilldi og Adstod þinna Heiløgu Engla, og hefur unt mier med Gledi og Heilbrygdi, upp aptur vakna, af Svefni og Myrkrum Næturiñar, til ad lofa þig og Vegsama, og þijn Daasemdarverk ad prijsa. Eg bid þig audmiukliga, o! þu Giæskurijki og Goodgiarni Fadir, fyrir þiñ kiæra Son JEsum Christum, miñ Endurlausnara, Laattu mig þeirri þiñi sømu Naad, Elsku, og Umsorgun, eñ nu a þessum Degi, truliga befaladañ vera. Stiorna þu mijnu Hiarta, Siñi, Hugskoti, Ordum og Giørdum, med þijnum verduga Heilaga Anda, so eg giøri eckert vondslega, nie styggi þig med mijnum Syndum, nu i Dag. Greid þu Gøtu mijna, og leid þu mijnar Fætur a þeim rietta Vegi.

Gief mier æ meir og meir, ad siaa og smacka Sætleika þiñar Naadar, og eflast og styrkiast i þiñi Þeckingu, og þiñi myklu Elsku alldrei ad gleyma, sem þu hefur mier audsynt, og mañligu Kyni. Giør mitt Hiarta þier ad Bw-stad og Herbergi, i hveriu þier sie þægi-ligt, þijna Vistar veru ad hafa. O! þu goodi DRottiñ og Almaattugi GUD, þu ert miñ Fadir, eñ eg þitt Barn, yf-irgief þu mig ecki, þviad til þijn er mier kastad allt fra miñar Mooðurkvidi, mitt Medlæti og Motlæti, Sorg og Gledi, er øll i þiñi Hendi, og sie þad þiñ naad-ugur Vilie, ad eg skuli hafa Lucku og Medlæti a þessum Degi, þa veittu mier DRottiñ þijna Naad, og Adstod, ad eg bruki þad riettilega, so þier megi vel þocknast. Eñ sie þad añars þiñ Vilie, ad nockur Sorg edur Motlæti skuli yfir mig koma i Dag, so gief þu mier Hei-laga Þolinmædi, ad umbera þad aan Reidi og Møglunar, þviad þañ Heil-susamliga Kaleik, sem þu Askeinkir fyr-ir mig, vil eg medtaka, og þitt Nafn DRottiñ vegsama. J þijnu Nafni goodi himneski Fader, uppbyria eg nu øll

mijn Verk, gief þu mier þar fyrir þa Naad, ad eg þann, i þess Krapti, vel af stad komi og framkvæmi; og þier af Hiarta O=aflaatanliga þacki, fyrir þijna Födurliga Adstod, og eg med Sonarligri Hlydni, laati mier vel nægia med þær Gaafur, Giædi og Efni, sem þijn Giæska hefur mier laanad og giefid, eñ fordist forbodid Gots samañ ad draga, eda med Oleifiligri Adferd miñar Næringar ad leita. Gior mig frasneiddañ Klækium og Kynduqskap þessarar Veralldar, hvern eg girnist ecki. O! DRottiñ miñ, allein=asta og einkum beidi eg þig, Vertu mier ecke Ognarligur eda skielfiligur, þa eg er staddur i nockri Neyd, þviad nær eg hefi þig ad eins, þa skeiti eg hverki um Himiñ nie Jord, Eg helld þig verdugri, og hef þig kiærari, eñ alla Fiaarsioodu heimsins. Æ, gief þu mier eg ysirgiefi þig alldrei, þu osegianliga Elska og sæti Kiærleiki. Vertu hia mier i Dag og alla Tijma. Þier befala eg a þessari Stundu og alltijd, Saalu mijna og Lijkama, og allt þad eg hefi. Somu=leidis alla mijna Vini, hveria þu virdist ad gledia, Asamt mijna Ovini, hveri-

um þu veit Leidrietting. Tak þu ad þier, til umhyggiu og Adstodar, sókum þiñar stooru Elsku, allar Naudliidandi, sorgfullar og Huggunarlausar Mañeskiur, sem þeckia þig, og akalla þitt Nafn. Vertu eiliif Heilsa og Hialpraad þiñi Christiligri Kyrkiu, og veit mier eiñin ad eg sie eiñ sañur lifandi Limur i heñi, so ad, þa eg skal skilia vid þetta Liif, og Armædu skamviñrar Hiervеru, megi eg verda uppnumiñ til þijn i Himiniñ. O! þu sæti Fadir, bænheyr þu mig, og veittu mier þessa mijna Beidni, fyrir Sakir Nafns og Forþienustu JEsu Christi þijns Sonar, mijns Lausnara, Amen.

## Kvølld = Bæn a Midvikudagiñ.

Giæskuriiki GUD og Naadugi himneski Fadir, þu sem skapad hefur Dagiñ til Erfidis, eñ Noottina til Hvijldar. Nu æ þessari Stundu vil eg leggia mig til Svefns i mijna Sæng, eñ mijn Angist er þo ad soñu ecki ad miñi, þvi mitt Hiarta og Samvitska vitna i moti

mier, hverſu eg hefi þig trulyndi Hiartans Fadir, til Reidi reitt ſtygt og moodgad, med mijnum margfølldum Syndum, a þeſſum Degi, og i ſo maata laangt um framar forþienad, ad verda fyrir þiñi ſtraungu Riettlætis Reidi, eñ niota þiñar Naadar og Vardveitſlu, i þeſſum ſvortu Myrkrum nu i Noott, Eñ þo ſamt kiem eg nu aptur til þijn lijka ſem ſa Fortapadi Son, berandi Angur fyrir mijnar Syndir, og bid þig uṁ Naad Kvittan og Fyrirgiefning, og ſegi: Avi! Himneſki Fadir, eg hefi ſyndgad i Himniñ og fyrir þier, O! DRottiñ, wtſkufa nu ecki þijnu Skiepnu Barni i þiñi Reidi, og kaſta mier ecki i burt fra þijnu Augliti, helldur miñſtu a þijn ſialfs egin Ord; Jaa, a þitt huggunarfulla Særi, ad Þu girniſt ecki Syndugs Mañs Dauda, helldur ad hañ ſnui ſier og lifi. Nu aangrar mig þad, og þad er mier af Hiarta leidt, ad eg hefi ſyndgad a moti þier. Snu þu mier nu DRottiñ, ſo verdur mier ſnuid, Lækna þu mig Drottiñ, þa verd eg Heilbrygdur, og tak ecki þiñ hellaga Anda burt fra mier, helldur laattu hañ leida mig og ſtiorna mier, ſo eg

eg O-aflaatanliga þioni þier med hreinu Hiarta. O! þu Naadargiarni Fadir, medtaktu nu mig þijna aumu Ungakind, undir þijna Naadar Vængi, og bevara minn Lijkama og Saal og allt þad mier tilheyrir, og alla Christna Menn, fra Svikum og Prettvijsi, þess vonda Dioful, og Veralldarinnar, og vardveit þu mig fyrir Tilteigingum mijns Hollds og Bloods, so eg falli ecki i Synd og Olucku, eda styggi þig minn GUD framar meir. Vertu Lioos og Wppbyrting minnar Saalu, i þessum Næturmyrkrum, og ef nockur Olucka, Neyd edur Haaski skylldi yfir mig koma, so halltu mier vid DRottinn, undir Hlijfd þinnar Handar, so þad Vonda fordiarfi mig ecki, og þad Jlla skadi mig ecki, Bivara þu mig fyrir vondum Svijvirdiligum Draumum, so ad eg i mijnum Svefni og Hvijlu, syndgi ecki a moti þier. Myskuna þig DRottinn yfir alla Menn sem þig aakalla a þessum Nætur tijma, og heyr þu milldiliga þeirra Bænir, og laat þeirra aakall koma fyrir þig. Vertu sialfur Lækning og Heilsuboot þeim Siuku, Vernd og skiool þeim Voludu, Fadir og Forsvar

þeim Fødurlausu, einka Traust og Athvarf øllum Gudhræddum Eckium. J þijnu blessada Nafni legg eg mig til Hvijldar, O! Drottinn vertu hia oss, þa hrædunst vier ecki, vertu vort Skiool og Skiolldur, þa skadar oss ecki. Eg befala mig þier med Saal og Lijkama, og bid þig med Taarum, ad yfirgiefa mig ecki nu i Nott nie æfinliga. Laat mig a morgun med Gledi upp aptur vakna, og þig þa þacknæmiliga prijsa og vegsama. Enn sie so þu hafir fyrirhugad og aasett, ad eg skuli a þessari Noottu skiliast vid þetta Lijf, AE Drottinn so gief mier þa Naad, ad eg megi vel tilreiddur og vidbwinn vera, og giør þad vid mig, so sem þu villt, verdi alleinasta þinn Vilie; Vertu mier ad eins naadugur, og laattu þijna Giæsku koma yfir mig, þviad eg vona a þig. Hier umm Bænheyr þu mig naadarsamliga fyrir JESU CHristi Skulld og Saker, hver med þier lifir og rijkir, einn sannur GUd, blessadur ad eilijfu, Amen.

# Morgun-Bæn a Fimtudaginn.

O! þu Allmaattugi og sterki GUD, allra kiærasti Himneski Fadir, þu sem mier hefur halldid vid Lijfid, fra miñar Moodur Kvidi, allt til þessarar nælægrar Stundar, eg byrtest hier, og kiem nu fram fyrer þitt Dyrdarfulla Auglit a þessum Dags Morgni, og vrijsa þig fyrir þijna O-umrædiliga Myskun, sem þu hefur so Fodurliga audsynt mier, a þessari umlidiñi Noottu. Þijnu Gud-doomligu Almætti hefi eg þad ad þacka, goodi Himneski Fadir, ad eg er nu upp-stadiñ af miñi Sæng, og Nætur hvijld, med Gledi og goodre Heilbrydi, O! DRottiñ, þijn Giæska og Myskun er meir eñ Þusundfolld, sem þu hefur mier Overdugum, allt hingad til, veitt og audsynt, eñ samt hlijt eg med Hiartans Angri, Trega og Taarafollum, ad jaata og vidurkieña, ad mitt Framferdi hefur ecki verid so a sig komid fyrer þier, so sem þvi byriadi.

Eñ eg bid þig nu goodi GUd, miñstu a Fyrirboon og Arnadar Ord þijns Sonar, mijns Krossfesta Endurlausnara JEsu Christi, þar hañ sagdi. Fader fyrirgief þu þeim, þeir vita ei hvad þeir giora.

O!

O! hvad opt syndga eg a moti þier, so eg veit þad ecki, og verd margfalldliga yfirbugadur af mijnu egin Holldi og Bloodi? þad er mier nu af Hiarta leidt, ad eg hefe styggt þig, O! DRottiñ Gud, og þijn med mijnum slæmum Syndum so optlega freistad, Fyrirgief þu mier þo samt goodi Fadir, fyrir sakir þijns Heilaga Dyrdarfulla Nafns, Veittu Myskunsemi Þræli þijnum, sem til þijn kallar, og wtskwfa ecki þiñi aumri Barnkynd i þiñi Reidi, hviad þu ert miñ Fadir, þad er þitt Nafn fra eilijfri Tijd, laattu mig fiña aptur ad nyu Naad fyrir þijnu Augliti, og tiaa þu þig Myskunsamañ vid mig a þessum Degi og alltijd. Þiñ goodi heilagi Ande stiorni mier til goodrar uppbyriunar og framkvæmdar, i ollum Efnum, sem eg tek mier fyrir Hendur ad giora. Þijnir heilagir Englar veri mig sier a Hondum, og hlijfi mier fyrir ollu Illu, hviad siaa þu DRottiñ, eg gief og befala þier, mijna Saal og samteingdañ Lijkama Vine og Naunga, og allt þad sem þijn Naadar-Hond hefur mier giefid, þad fel eg giorvallt i þijna Trwlynda Fodurs Hond.

Hend. Vertu mitt Lioos, Lijf og Heilsa, og allra Manna sem ottast þig, og þeckia þitt heilaga Nafn, vertu hia mier i øllum mijnum Athøfnum, og veit mierRaad, ad eg i þijnu Nafni, og eptir þinni Befalningu, framkvæmi mitt Embætti, i hvert þu hefur mig innsett, og vaki kostgiæfiliga þar inni, med Trw og Dygd, Laattu mier þad farsælliga luckast, og mijna Erfidismuni þier þocknast, og gief þu sialfur þijna Blessan þar til, ad eg tilbæriliga leiti minnar Næringar, og mijns dagligs Brauds, bædi fyrir mig og mijna, epter þinni Tilsøgn, og medtake þad af þinni Naadar hendi med þackargiørd. Styr þu og stiorna minni Tungu, og vardveit mig fyrir skammarlegum Munnrædum, fra Blooti og Formælingum, fra Onytsamligum Eydum, fra Drambsemi, Lauslæti, Ofund, Agirnd, og øllum þvilijkum Syndum og Løstum, so ad þijn Bølvan komi ecki yfir mig. Bevara Hiarta mitt fyrir vondum og Ogudligum þenkum, og vernda alla mijna Lidu og Limu, fyrir O-leifiligum Verkum, laattu mig ølldungis þennan Dag i þijnum Otta lifa, til þijn Andvarpa, og þig

þig af Hiarta elſka, ſo þier verdi til Dyrdar, eñ mier til Sæluhialpar, fyrir Sakir Nafns og Forþienuſtu þijns elſkuliga Sonar mijns Endurlauſnara, Amen.

## Kvølld-Bæn a Fimtudagiñ.

O! HErra GUd Himneſkur Fadir, fullur Nædar og Goodgirndar, Þu ſem veitir Myſkun og Miedaumkan i Þuſund Lidu, øllum þeim ſem ſnua ſier til þijn. Hvernin fæ eg nu þitt Nafn noogliga prijſſad, og vijdfrægt þijna Dyrd ſem verdugt er? Þu ſem mig hefur ſo Hiartanliga elſkad, og ad þier tekid, og añaſt mig ſo Milldiliga allañ þeñañ Dag, ad eg heſi hañ wtendad fyrir utan Skada og Haaſkaſemdir, ſem añars hefdu Otal yfer mig komid. Medtaktu nu þar fyrir af mier til Betalings, þad fullkomna Offur, þijns elſkuliga Sonar JEſu CHriſti, mijns Endurlauſnara, ſem hañ med ſiñi Forþienuſtu wtlagdi fyrir mig. Vertu mier nu framvegis, fyrir hans ſaker, Myſkunſamur og Nædugur,

ugur, þviad nema so sie, ad þu miñ Gud geymir mig og vidhalldir, þa Fortapast eg snarliga, i þessum Nætur myrkrum, Vertu þar fyrir mitt Lioos og eruggur Kastale, og tak mig nu uppa þiñ nææd-ar Armlegg miñ GUD, þu hefur mier heitid, ad þu skulir alldrei gleyma mier. Mitt Hiarta er so sturlad i mijnu Brio-sti vegna miña Synda, med hverium eg hefi styggt þig og modgad nu i Dag. Æ DRottiñ, gief þu mier þad kvitt, i Nafni JEsu Christi, og skapa i mier eiñ Gladværañ Anda, so ad eg i siødugu Trausti til þijn, megi O-aflaatanliga kalla og segia, Abba, elskulegi Fadir, Blessa þu miñ Svefn a þessare Noottu, so hañ verdi mier ecke eiñ Synda svefn, Laattu Saal mijna hafa hviild og Roo-semi i þier, og nær mijn Augu sofa, og miñ þreittur Lijkami hviilist, þa halltu, Millderijki GUD, þijnum Augum aavallt vakandi yfir mier, so eingin Olucka gieti snert mig, nie nockud vondsligt komid nærri miñi Hvijlu og Heimili. Þiñi Fødurlegri Vmhyggiu, befala eg nu i Noott og alla Tijma, mijna Saal og Lijkama, og alla mijna Naunga og Ast-meñ,

meñ, og allañ þin Riettruadra Barna hoop. O DRottiñ hafdu Umhyggiu fyrir mier, a medan eg sef, og vaktu sialfur yfir mier, og vernda mig fyrir all=i Kvøl og Kvisda, Lijfs og Saalar vegna, so eg megi i þiñi Naad, a Morgun upp aptur vakna, þig ad lofa, prijsa og Vegsama.

O! DRottiñ, hugga þu a þessari Noottu, allar freistadar, hrelldar og Harmandi Mañeskiur, sem þijns Sonar JEsu Christi Dyrdarfulla Nafn, i sañri Tru aakalla, og laat þa fiña og formerkia þijna Hialp, Freistingarnar yfirvinna, og Sigrinum behallda. Og med þvi ad Svefniñ er Daudans Undanfari, þa veit mier þijna Naad, og Hiastod, lijknsami Fadir, ad eg gieti so lifad þessu lijkamlegu Lijfi, ad þegar þad er wti og miinir Dagar skulu ending hafa, þa megi mijn Saal uppnumin verda i Himiniñ til þijn, i þa eilijfu Hvijld, hvar eg mun ei miñast stundliqra Eymda og Armædu þessa Lijfs, helldur med ædsu Gledi, lofa þig og prijsa, um alla Eilijfd. Þangad veittu mier ad komast, godgiarni Fadir, og heyr nu mijna Bæn, og Myskuns

Myskuna mier miñ GUD, fyrir þad kroptuga Arnadar Ord og Forþienustu þijns Eingietins Sonar JEsu CHristi mijns Frelsara, Amen.

# Morgun-Bæn a Fostu-dagiñ.

O Þu allra sætasti og elskulegi HErra JEsu Christe, Hversu vært og Rooliga hefur þu uñt mier ad sofa og hvijlast a þessari umlidiñi Noott? Hvad hress er eg nu upp aptur stadiñ af miñi Sæng, a þessum Dags morgni? Þu trufasti Heilsugiafari, þijn Elska hefur wtbreidt sig yfir mig i Nott, og þitt Almætti Dasamliga uñkriingt mig a alla vega. Eg þacka þier alla þijna giæsku, Lijkn og Lidsemd, sem þu mier aumri Mañeskiu, hefur so naadarsamliga audsynt, allt til þessa Tijma. Eg bid þig Audmiukliga, O! HErra JESU, syndu mier þitt Andlit i Dag, þvi þad er so lystilegt, Gled þu Saalina Þræls þijns, med þiñi naadar Naalægd. Styrk þu mig med Hiastod og Upplysingu þijns verduga H. Anda, so eg gieti þionad

þier med hreinu Hiarta, og heilgau Liiferni. Fyrirgief mier allar mijnar Syndir og Misgiørninga, sem eg hefi giørt og framid a moti þier, med Vilianum, Hugreñinaum, Ordum og Verkum. HErra JEsu Christe, fyrir þijna bitru Pijnu og Bloods Uthellingu, vertu mier Myskunsamur, og hreinsa mig af allri Synd. Giør þu mijna Tru styrka og stadfasta, æ meir og meir til þijn, Auktu mijna Elsku, og gief mier ørugt Trunadartraust a þeirri blessudu Foorn, og Forliikunar Offri, sem þu wtiagder a Kross ins Gaalga, fyrir mig og Mañkynid. Leid þu mig eptir þier, so eg villist ecki wt af Vegi þinna Blessudu Bodorda, og gleymi alldrei þijnum Setningum. O! HErra JEsu, sem a þessum Degi liest leggia þiñ heilaga Liikama i þijna Grøf, giefdu mier þijna Naad, ad eg gieti diwpt nidur grafid mijnar Synder, so þær fai olldrei framar meir Drottnad yfer mier, eda riikt i mijnum daudligum Liikama. Jaa, HErra JESU! kasta þu þeim sialfur a bak þier aptur, og minstu þeirra alldrei framar meir, Hyl þu og dyl, miñ Elskulegi Endurlausnari,

lausnari, alla miina vondsku og otietleg Afbrot, og iklæd mig þiinu heilaga Riettlæti. Laattu mig ganga i þiinu Liooſi nu i Dag, og Vgglausann vera, undir Vernd og Geymslu þinna Heilegu Engla. Blessa þu mig a Sælu og Liisi, og bevara þu mig sem þinn Augastein, Taktu mig ad þier, so sem þitt Oskabarn, sem med ærid dyru Verdi er keypt og endurleyst. Og ef Diøfullinn, eda adrer miiner Oviner, synileger edur osynileger, vilia til vid mig ad skada mig, þa laattu Teikn þiins Heilaga Bloods, verda þeim ad Skielfingu, enn mier ad sterkasta Skioli og Skylldi, so mig skadi ecki. Vertu med mier, O! JEsu i øllum miinum Utriettingum, og laat þær Luckusamliga falla, þa þær eru i þier giørdar, enn forda mier øllum Ochristilegum Asetningi, og Vppbyriun sem þier er i mote og mier er skadlig. Vertu Miskunsamur øllum þeim sem vona a þig, og gief sierhverium sinn deilldann Verd, og dagliga Næring. Og yfirgief ecki þiina litlu Hiørd i christiliart Kyrkiu, hverrar Erchibiskup og ædsti Høfudprestur þu ert.

Gief oss framar meir, ad sia og smakka Sætleika þiñar Nadar, og nioota þiñar Elsku, sem þu hefur haft til vor, og hefur eñ nu. Og ad siidustu, þa vort Liifs-Glas er wtruñid, og vier skulum ganga Veg Daudans og allrar Veralldar. O JEsu! vier bidium þig af Hiarta, lattu þiñ Heilaga Dauda vera þa vort Liif, þijna Grøf vora Hvijlu, Þijnar Undir og Siidusaar vora Lækning, og þijna stooru Angist, vora ædstu Huggun, so ad vier mættum þa med traustre Tru, leggia oss i þitt Myskunar Skaut, og Hæskalaust burt sofna, farandi so i Fridi fra þessari Utlegd i giegnum Daudañ, iñ i sæla Sigur hofn þess eilijfa Fridar og Fodurlands, sem er eilijft Liif. Þad sama veittu oss, O JESU! fyrir þijns heilaga Nafns og Forþienustu saker, Hæblessadur og lofadur um̃ alla Eilijfd, Amen.

## Kvolld=Bæn a Fostudagiñ.

Lofadur og vegsamadur siertu allra kiærasti HErra JESU Christe, Lioos

Lioos þessa Dags er horfid og undergenged, en̄ su Dim̄a Noott er yfir komin, hvad mier giefur þa Eptirtekt og Um̄þeinking, ad ein̄ Dag epter an̄an̄, siyttist meir og meir mijn Hierviſt vid þetta stundliga Lijf, hvers vegna ea nálægist dagliga Grøfina og mijnum Dauda. O! þu Giæskurijke HErra JEsu, þijn furdanlig Naad og Oransakanlig Giæska hefur en̄ nu a þessum Degi audsynt mier Myskun og Vardveitslu, so eg hefe aan Skada og Fordiørfunar, aflifad þen̄an̄ Dag. O! þu trufaste Emanuel, hversu Fødurliga Umhyggiu, hefur þu fyrir oss þijnum Børnum? Hversu kroptugliga hefur þu vardveitt oss fra allri Olucku? AE veittu mier, ad eg kyn̄i so fullkomlega ad þiona þier, sem þu meddeiler mier dagliga þin̄i Elsku og Omælilegum Kiærleika, En̄, GUd naadi, eg hlijt med Hiartans Angre og Andvarpan yfir klaga, ad mijn Saala er hrygg allt til Daudans, þess vegna, ad eg hefe þig þu H. Elska, so miøg styggt og mødgad þen̄an̄ Dag, med mijnum Syndum og Misverkum, og ecki laatid mier i Hug koma, þa storu Daudans Angist, sem þu

leidst og bøldir, vegna miña Misgiørda i Alldengardenum. O! HErra JEsu, vertu mier þo nædugur, og fyrirgief mier allar mijnar Synder, fyrir Sakir þinna Vnda og blessudu Bloods Uthellingar, og syndu mier nu þijna heilogu Sijdu, eins og þijnum Lærisveinum til Jerusalem, so eg megi þariñi Hvijld og Roosemi hafa, æn allrar Skielfingar og Otta, fyrer mijnum Sælar Ovinum. HErra JEsu, fyrergief þu mier mijnar vitanlegar og Ovitanlegar Synder, og hreinsa mig af þeim, fyrer þitt Heilaga Blood, og blessada Pijnu, og lææt mig þijna aumu Skiepnu, og Barnkind, þiñi Næd og Umhyggiu trulega befalada vera, a þessari Nottu. Lææt þu þiñ heilaga Frid koma yfir mig a Lijfi og Sælu, og mig vel vardveittañ verda, i Biargskorum þiñar Signudu Sijdu, so eg mege aptur ad nyu siæ Lioos Morgundagsins, med Gledi og Fognudi i þier. Vertu Lijknsamur øllum þeim sem þig i Anda og Sañleika og riettri Tru tilbidia, og miskuna þig yfir allañ Christendoomiñ. Vertu Vernd og Vidhalld i þvi hinu Gooda,

þeim

þeim Riettlætu, enn Jdran og Aptur hvarf þeim Gudlausu, fra þvi Bonda, so ad þitt heilaga Blood, verdi ecki til forgiefins a nockrum. O! HErra JEsu, lættu Lioos þinnar Guddoomligu Nædar og Huggunar, fagurliga skijna yfer mier a þessari Noottu, so ad mijn Saal vaki alla Tijma til þijn, og ad eg ævallt hafi minn Fognud i þier fyrir Trwna, allt til þess Dags, a hverium þu munt veita mier, ad mega siaa þig og skoda, Augliti til Auglitis, og siidann umm Oendanlega Eilijfa Tijd. Þessa beidi eg þig O! JEsu, minn Endurlausnari, fyrer sakir þinnar dyrmætu Elsku, og Sannleika þinna obrigdanlegra Fyrirheita, þu sem lifir og rijkir, samnur GUD med Fødurnum og Heilögum Anda, Lofadur og dyrkadur umm alla Eilijfd, Amen.

## Morgun-Bæn a Laugardaginn.

O þu Almættugi Myskunsami Gud, fullur Nædar og Kiærleika, eg aum og syndug Manneskia, vidurkienni a þessari Morgunstund, þijna Fødurlega Hlyfd

og Naad, af hverre þu hefur so rijkugliga audsynt mier allt gott, a Saalu og Lijkama, fra miñar Modur Lijfi, allt til þessa nælæga Tijma. Eg prijsa þig, O! þu Naadugi Fadir, fyrir alla þessa þijna Otelianlega Velgiorninga, eñ þo einkum og allra helst fyrir þad, þu hefur mig so hiartanliga elskad, i þijnum Syni JEsu Christo, ædur eñ Grundvollur Veralldareñar var lagdur, og hefur lætid hañ fyrir mig deya a Krossinum, so eg skylldi frelsast fra þeim eilijfa Dauda. Eg bid þig hiartanliga, O! þu Giæsku-rijke Gud, gief mier og veit, ad eg gleymi alldrei þvilijkri þiñe stooru Naad, og æstifolgiñi Myskun, helldur ad eg færi þier þar fyrir, alla Tijma skylldugt Þacklæti, Lof og Heidur. Eg bid þig audmiukliga, veittu mier þiina Naad, og Adstod þijns Gooda verduga heilaga Anda, ad eg giori mig ecki O-verdugañ, slijkra þiña Himneskra Giæda, med mijnu Syndsamligu Lijferni, lættu mig alltijd ganga riettiliga fyrir þier, og so skicka mijnu Framferdi Daglega, ad þier vel þocknist. O Drottiñ, eg bid þig nu og Grætbæni, fyrir-

gief

gief þu mier allar mijnar Synder og Misgiorninga, sem eg hefi giort og framid a moote þier, med illum Hugrenum, Ordum og Giordum, um alla mijna Lijfdaga og a þessari umlidinni Viku, Minstu ecki a Syndir minnar Æsku, og mijnar Yfirtrodslur, helldur minstu mijn eptir þinni Myskunsemi, fyrir Saker þinnar stooru Giæsku, utskwfa ecki fra þier þinu Barnkind i Reidi þinni, sem sig forlætur uppa þa dyrmætu Forþienustu, þijns einka Sonar JEsu Christi. Og med þvi, ad Diøfullinn sækir eptir ad leida mig fra þier, þa stattu hia mier, O! þu almattugi GUD, so hans Svik og Prettvijsi verdi til forgiefins, og hann kaai eingum sijnum Asetningi vid mig framkomid, leid þu mig i þinni Elsku, og stattu ørugglega hia mier, so eg rasi ecki. O! þu goodi himneski Fadir, i þijnu Nafni og Trausti, vil eg nu øll mijn Verk og Athafnir uppbyria, vertu med mier, so þær vel luckist, og verdi þier til Dyrdar, enn mier til Saaluhialpar og Gagnsmuna, þvi uppa þig Drottinn forlæt eg mig. Laattu mig standa trulega i mijnu Kalli og Embætti, og

leita þijn fram̃ yfir alla hluti. Veit mier alltijd betur og betur ad þeckia þig, og halltu mier stødugum vid þad eina, ad eg ottist þig. Blessa þu og so i Dag, mijna Eign og Formegan, so eg hafi mitt naudsynligt Braud til Næringar, bædi fyrir mig og mijna, og læt ei mitt Afkvæmi ganga Vonarvøl. Og sie so þier þocknist a þessum Degi, edur hvern an̄an̄, ad læta mig rata i nockurn Krossburd, Ofsokn, Neyd eda Þreinging, þa bid eg þig Lijknsami Fadir, riettu ad mier þijna Hialpar hønd, midt i Bylgium Eymdan̄a, so eg socki ecki til Grun̄s, og verdi ecki yfirbugadur, styrk þu mig og styd, so eg falli ecki, kien̄ þu mier vel ad strijda, og Þolinmæde ad hafa, og alltijd ad setia mijna Von til þijn. Sokum þin̄ar Omælilegrar Giæsku, þa vertu mier myskunsamur, og øllum Mon̄um sem elska þig, og eptir þier leita, Vardveittu þijna adþreingdu og þiaadu christelegu Kyrkiu, og halltu vid Magt a þessare sijdustu og vondu Tijd, þeirre litlu Hiørd þin̄a truadra Barna, sem þig aakalla. Bænheyr þu milldilega allar Naudlijdandi

Man̄-

Mañeskiur, og þa sem eru Hialparlauser, veittu þeim Rœd, Adstod og Huggun.

Sierdeilis bid eg þig himneski Fadir, gief mier þijnum Þioon þad Hiarta sem þig heidri, þier Treysti, og frōm yfir alla Hlute elske og adhyllist. Yfirgiefdu mig ecki miñ GUd, þviad eg vona a þig. sia þu Drottiñ, eg befala i Dag og alla Tijma, i þijnar Mijskunar og Almættis Hendur, mijna Sæl og Lijkama, mitt Hws og Heimkyñi, mijna Kviñu og Born, mijna Æru, Embætti og Eignir, og allt þad mier vidkiemur. O! DRottiñ, vertu miñ Skiolldur, og Skiool, Heill og Hialpræd. Þijnir heilagir Englar vaki yfir mier, og verndi mig og mijna fyrir allri Fordiorfun og Olucku, og lættu mig Ugglausañ bwa undir Vernd þiña vængia, allt þangad til þu frelsar mig, fra Mœdu og Meinum þessa fallvallta Lijfs, og iñleider mig i þitt Dyrdar Rijki, og eilijft Lijf. Þetta veittu mier Mijskunsamlega, og bænheyr mig, fyrir Saker JEsu Christi, þijns kiæra Sonar, mijns elskulega Endurlausnara, Amen.

Kvolld-

# Kvolld-Bæn a Laugardagiñ.

Þu nædugi GUd og allra kiærasti Fadir, þijn Naad og Mijskunsemi er so stoor sem þu ert sialfur, þad vidurkieñir Saala mijn, med Hiartanligri Þackargiørd, a þessari Kvolld-Stund, þviad fyrir þijna sterku Hond og Vidhalld hefe eg lijknsami Fadir, þeñañ Dag, og alla þessa um̄lidna Viku, so dasamliga vardveittur verid, fyrir allri Olucku, Skom̄ og Skada. Eñ hvad illa hefi eg lifad, og hversu margfalldlega hefe eg styggt þig og mood gad, og hversu vitna þad Synder mijnar og Samvitska? Eg medkieñi Goodi hiartans Fadir, ad eg er eiñ fortapadur Sonur, sem øllum þijnum storum og margfolldum Giædum og Gæfum hefi wtsooad, og hondlad illa med þær, jaa miñ goodi GUd, eg hlijt ad medkieña, ad eg er eitt ohlydid Barn, og fortapadur Saudur, sem so illa hefe fravillst, og fallid i vonda ovege adskilianligra Synda og Lasta; eñ eg veit þo miñ goodi DRottiñ, ad þu ert nædugur og myskunsamur, og hefur

sendt

sendt þinn elskuliga Son i Holldid til þess, ad lækna mig og leysa af Fiotrum Syndarinnar og mier aptur ad giefa og utvega þad Riettlæti, sem eg hafdi misst og fortapad. So bid eg þig þa, med sundurknosudu og kromdu Hiarta, O! þu naadugi Fadir, vertu mier aumum Syndara lijknsamur, vertu naadugur minni Misgiord, sem er næsta mykil, og myskuna þig yfir mig, sokum þinnar Omælilegrar Giæsku, afma þu allar mijnar Syndir, og gief mier hier eptir eitt hlydid Hiarta. DRottinn, tilreid þu mig sialfur hier tijmanlega, so sem þu villt ad eg verdi þar eilijflega. Synia mier ecki þinnar Naadar og Adstodar, minn DRottinn, og minn GUd, nær eg kalla til þijn i minni Neyd og Angist, yfirgief þu DRottinn ecki þitt Barn, fyrir hvers Sakir, þinn elskulegur Sonur hefur uthellt sijnu heilaga Roos-rauda Bloodi. O! HErra JEsu, kom þu mier til Hialpar, med þinni kroptugu Fyrirboon og Arnadar Ordi, og laat mitt aangrada Hiarta og Samvitsku mega heyra a þau Huggunarfullu Ordin, Fridur sie med þier, vertu hughraustur Sonur, þier eru

þijnar

þijnar Synder fyrergiefnar. DRottiñ GUd Heilagi Andi, vertu miñ Lærimeistari, og hialpa þu mijnum Breyskleika, tak burt wr mijnu Hiarta þa vondu Synda Samvitsku, og gief mier ad fraiñganga Sidsamliga, so sem a Deai alltijd i þijnu Liooſi. O! þu Harblessada Þreñing, vernda mig og vardveit framar meir, undir Vængium þiñar Guddomligrar Naadar, og geimdu mig þar vel, so sem þijna elskuliga Barnkynd, og bevara þu mig i þessum yferkomnum Nætur myrkrum, so eg mege ugglaus vera fyrir ollum Skada, og allri Olucku bædi Lijfs og Saalar vegna. Þiñi guddoomligri Naad og Vmhyggiu, fæ eg og fel a hendur Saalu mijna og Lijkama, og allt hvad þijn blessud Godgirni hefur mier giefid. Vaktu, O! DRottiñ yfir mier, so eingin Olucka megi snerta mig, og lattu mijna Saalu vaka til þijn og hafa alla sijna Vnadsemd og Gledi i þier. Og eptir þvi þu hefur sett mijnum Lijfsdogum eitt Takmark, yfir hvert eg kañ ecki ad komast, eñ eg veit þo ecki nema eg sie þvi harla nalægur ordiñ, þa lattu miñ

miñ Svefn a þessari Noottu, ecke verda Synda edur Dauda Svefn. Bevara mig fyrir vondum og hastarligum Dauda, eñ gief mier þijna Naad, ad eg o-aflaatanliga bui mig þar til, og ad eg, þa mitt Lijf skal endast, kuñi med Oskierdtu Viti og Skynsemi, ad befala þier mijna Saal i Hendur. So legg eg mig nu wt af til Svefns gladur og hughraustur i þier miñ GUD, þvi þu ert hia mier. Vertu med mier i Lijfi og Dauda, og laat mig eptir afliden Nætur Myrkriñ, aptur ad nyu sia Dags liooſid med Gledi og Heilbrygdi, til ad gøfga og heidra þitt heilaga mykla Nafn, hier tijmanlega, og sijdar eilijflega, Amen.

## Morgun-Bæn þess Siuka.

Ó þu riettlaati GUD, myskunsami Fadir, þu sem hefur Lyſing til Lijfsins, hier ligg eg nu i mijnum laangvarandi Siukdomi, mitt Hiarta þad skielfur, miñ Kraptur hefur mig yfirgiefed, mijn Asynd tekur ad følna, og Angist

mijns

miijns Hiarta er næsta mykil, miijn Bein eru sundurkramin, og miijn Saala er næsta miøg hrelld. Eg ligg hier nu undir þijnu Hyrtingar hriisi, og þar er eingin Heilbrygde i miinnm Liikama. Eg veit vel Riettlaati GUD, at þu straffar mig riettviislega vegna miña Synda og Idrunarleysis, i hveriu eg hefi allt ofienge lifad og legid. Eñ sia þu, nu sny eg mier til þijn, med angrudu og idrandi Hiarta. AE DRottiñ, vertu mier aumum og Syndugum Liiknsamur og Nadugur, snu þu og so til mijn aptur a mot þijnu Myskunar Hiarta, þvi mig þyrster og forlengir so miøg eptir þijnu Hialpræde og Huggun, uñ hveria eg er miøg Angurbitiñ. Snu þier DRottiñ og frelsa mijna Saalu, liittu a mijna Eymd og Neyd, i hverre eg er staddur, laattu hana þier til Hiarta ganga, og frelsa mitt Liif fra Fordiørfuniñi, Minstu DRottiñ a þijna stadføstu Trygd, og legg þu ecki meira uppa mig eñ eg giet borid, og sie þad þiñ Nadugur Vilie, þa gior þu eiñ Enda a mijnum Graati og Andvarpan, og tak þeñañ Siukdoom af mier i þiñi Myskun, gief þu

þu og so Krapt og Styrkleika Lækningunum og Medølunum, so þau kuñi ad þiena vid mijnum Siukdoomi. Eñ sie þad so Nœdugi Fadir, þu hafir Alyktad ad lœta nockud añad koma yfir mig, sem betra er fyrir mijna Sœlu, þa verdi þiñ heilage Vilie, alleinasta giefdu mier heilaga Þolinmædi, til ad bera allt þad þijn Guddoomlig Fyrerhyggia hefur mier tilskickad. O! JEsu, þu fagra SoolRiettlætisins, upplystu mitt hrygdarfullt og harmandi Hiarta a þessum Degi, lœttu og so þau sundurkromdu Beinin (ef þau fa ecki fullkomliga Lækning ad ødlast) þa samt mega þiña og formerkia Dropa Huggunar og goodrar Roosemdar, fyrir þijna heiløgu Tilsøgn og Nœdar Fyrirheit. Yfir alla Hluti fram, halltu þiñe Hendi yfir mier þijnu Barne, so eg midt i miñi stærstu Kvøl og Pijnu, miñist a þijna storu Elsku, og mig alltijd gledie i þiñi tilkomandi Hialp og Huggun. Bænheyr þu mig, miñ goodi Læknari JEsu Christe, þu sem ert Meistari til at hialpa, og vertu mier nu nœdugur fyrir þijns heilaga Nafns Sakir, Amen.

# Kvolld-Bæn þess Siuka.

Almættugi og nædugi Gud, Himneski Fadir, sia þu ein mykel Kvol og Pijna, hefur mig nu umkringt, þvi þu DRottin hefur lagt a mig eina Eymd eptir adra, so ad Angist mijns Hiarta gioriſt næſta mykil, og eg tijſti ſem Tranan og Svalan og ſtyn ſem Dwfan, og mijn Augu vilia af Harmi wtſpriinga. Æ DRottin, lijttu a mijna ſtoru Kvøl og Pijnu, ſem a mier liggur i þeſſum mijnum Siukdomi, og ei mijnkar vid þau ſvørtu Myrkur, ſem nu med Noottuni yfirfalla. O! HErra JEſu, þu bleſſada Mañaña Lioos, lættu Lioma þijns Andlitis lyſa yfir mier, ſo ad mijn Sæla endurnæriſt og gledieſt i þier, myſkuna þig yfir mig min goodi Heilſugiafari, og vijk ecki fra mier a þeſſari Noottu, þar mig (añars) øll Verølldin yfirgiefur, þvi alla mijna von ſet eg til þijn, eg er þitt forlæatid Barn, þu ert min Fadir, eg er þin Son, leid þu Saal mijna wt af Hermunguñi, og endurnær þu mig a miñi

Soott-

Soottarsæng, lækna mig af øllum mijnum Siukdoomi, hugga þu mitt Hiarta, sem sturlad er vegna miña Synda. AE DRottiñ, segdu eitt einasta Ord, og mun eg heilbrygdur verda, hverki lækna oss Jurter nie Plaaistrar, helldur þitt Ord DRottiñ, sem læknar alla Hluti, og sie þad þiñ Fødurlegur Vilie, miñ GUd, ad þetta mitt Krankdæme, skuli endast med Daudanum, þa gief mier Naad, og Heilags Anda kroptuga Upplysing, ad eg sie Hugdiarfur og Oefadur um þitt Fulltingi og Frelsi, sem þu lofad hefur øllum þeim, sem a þiñ Eingietiñ Son trua, sem er, ad ødlast eilijft Lijf, og Upprisu Holldsins a sijdasta Degi, og veit mier ad huxa, ad betri sie Daudadaguriñ helldur eñ Fædingardaguriñ. HErra JEsu þu ert mitt Lijf, og Daudiñ er miñ Aviñingur, giør þu vid mig eptir þijnum Fødurligum Vilia, og hialpa mier, so eg eignist mijna Saal i heilagri þolinmædi, alltijd gladur i Voniñi, hughraustur i Hørmunguñi, velviliadur til ad lijda, þola og umbera, og alltijd reidubwiñ vid mijnum Dauda ad vera, stadfastur i

Truñi allt til Æfiloka. Miin Saal hun biidur og væntir eptir þier, fra eiñi Morgunvøkuñi allt til añarar, og fra Middegenu til Midrar-Nætur, kalla eg DRottiñ eptir þiñi Hialp. So kom þu nu miñ Almættugi HErra þu goodi Læknari, og giør mig heilbrygdañ, kom miñ Fadir og hialpa mier, kom þu miñ DRottiñ, og miñ GUd, og frelsa þu mig wr allri miñi Neyd, fyrir JEsu Nafns Sakir, Amen.

## Bæn um̃ þañ siidasta Dag.

Hþu Stoormektugi Kongur Dyrdariñar, HErra JEsu CHriste, sem med heiløgum Englum, koma munt i þiñi Dyrd og Magtarvelldi, ad dæma lifandi Meñ og Dauda, og hefur sagt: Mañsins Sonur mun koma so sem Þioofur um̃ Noott, og a þeirre Stundu sem þier vited ecki, so vered nu vakande alla Tiima, og bidied, so ad þier mættud verdugir vera, ad umflya allt þetta hvad eptirkomande er, og ad standa so frame fyrir Mañsins Syne. Þig a-
kalla

kalla eg og bid af ollu Hiarta, allri Saalu, ollum Kroptum og Hugskoti, ad þu vilier laata þañ Æskeliga Dag vorrar Endurlausnar uppreña, a hverium þu munt alla þa Framlidnu uppvekia, og alla Christeliga Kyrkiu frelsa, fra ollu Illu til Liifs og Saalar, gief mier dagliga ad bwa mig þar til, med heilogu Athæsi, og gudrækeligum Verkum, so ad eg eptirbijde og skunde ad þeirre þiñe siidustu Tilkomu, og fyrir þier Flecklaus og Ostraffanligur fundeñ verde med Fognude. Veittu mier, ad eg i Tijma tilreide og pryde mijna Lampa med Vidsmiore, eptir Dæme þeirra siñ forsiaalu Jomfruña, og sie Sparlijfur, Iklæddur Bryniu Trwareñar og Kiærleikssins, og med Hialme Vonariñar til Hialprædesins, uppa þad eg mege þa med þier, mijnum elskulegum Brwdguma, iñganga i þitt Brwdkaup, adur eñ Dyrnar verda apturlucktar. O HErra JEsuChriste, þa allar Þioodir verda samansafnadar fyrir þier, og þu skilur hveria fra odrum, so sem Hyrder sundurgreiner Saude fra Kidum, laattu mig þa ecki

falla

falla edur fara i Selſkap med þeim fordæmda Hoop, hverium þu munt 'a þier ſkipa, i eilijfañ Elld, ſem fyrirbweñ er Andſkotanum og hans Englum, helldur ſet þu mig a medal þeirra bleſſudu þijns Fødurs, ſem Rijked erfa ſkulu, hvert þeim er fyrirbwed fra Upphafi Verralldar, ſo eg med þeim Riettlaatu iñgangi til eilijfs Lijfs. Og med þvi ad allur Heimuriñ liggur i þvi hinu vonda, einkum a þeſſum ſijdaſtu Døgum, ſem er ein vond og hrædelig Tijd, a hverre þijn litla Hiørd er margvijſlega underþryckt, þa kom þu ſnarliga goode JEſu, og giør eiñ Enda a þeſſari vondu Verolldu, og leid oſſ þijna wtlendinga iñ i þad Himneſka Fødurlandid, ja, HErra JEſu, kom ſnarliga og frelſa Iſrael, ſem er allañ Chriſtendomeñ, af allri Neyd, þviad lijka ſo ſem Hiorturiñ kallar eptir ferſku Vatne, ſo kallar mijn Saala GUd til þijn, mijna Saal þyrſter eptir GUde, eptir þeim lifanda GUde, hvenær man eg þangad komaſt, ad eg ſiaae GUds Auglit, þvi eg villde giarnan med þeim Flocknum burtu ganga, og med honum fara til GUds

Hwſs,

Hwis, med Gledskap og Þackargiord, med þeim Hoopnum sem ad helldur heilagt. Æ, eg villde ad þu i sundurliter Himnana og færer hingad ofan, og frelsadir þitt hid herfekna Folk, þa munu þijner heiløgu glediast, og þijn Albilda Ottalaus byggia: Girnd þeirra Fatæku heyrir þu DRottiñ, þeirra Hiarta veit visseliga, ad þitt Eyra hyggur þar ad, þar fyrir æfijttu vora Hiartans Eptirlaungan. O þu goode Emanuel, leid þu oss iñ i þijns Fødurs Hws, hvar ad eru margar Verur, so vier þær iñtokum og erfum og þar ad eilijfu blijfum og bwum. Kom þu DRottiñ JEsu, og komsnarliga, Dyrd, Heidur, eilijf Æra og Þackargiord sie þier, æsamt Fødurnum og þeim heilaga Anda, ad eilijfu,

A M E N.

)*(



Regist-

# Registur
yfer þessa
# Bæna-Book.







